# Hrana saga hrings

## 1. kafli

Bárðr hét maðr, ok var son Heyangrs-Bjarnar, hersis or Sogni; hann fór út til íslands í landnámstíð ok nam Bárardal allan frá Kálf-borgará til Svartár beggjavegna; hann bjó at Lundarbrekku; hans synir voru þeir: Þorsteinn ok Sigmundr, Nefsteinn ok Egill. Bárði þókti eigi viðra vel í dalnum, ok eirði þar því ekki til lengdar. Eitt vor sendi hann sonu sína suðr yfir heiðar at forvitnaz um, hversu þar félli út veðráttufar; var þat um gói; komu þeir aftr at hálfsmánaðarfresti, ok létu vel af landi; fundn ðeir þá góibitla og annan gróðr. Annat vor tók Bárðr sik upp með allan sinn varnað, ok fór suðr Vonarskarð, þar sem nú heitir Bárðargata; hann nam síðan Fljótshverfi, ok bjó at Gnúpum ok var síðan Gnúpa-Bárðr kallaðr; enn Egill, son Bárðar, bjó eftir at Lundarbrekku; hann átti Salgerði, dóttur Þóris snepils at Lundi; þeira son var Hrani hringr, er því var kallaðr hringr, at hann hafði rauban hring á hinni vinstri kinn, Hrani var snemma gjörfalegr ok hinn mesti maðr.

## 2. kafli

Maðr er nefndr Helgi krókr, son Goðlaugs Ásgeirssonar or Sogni; hann for frá Suðreyjum til Islands, ok hélt skipi sínu í Skjálfandafljótsós; hann var skyldr Agli á Lundar-brekku. Þeir feðgar tóku vel víð honum, ok var hann þar um bríð. Eitt sinn kom hann at máli við Egil, at hann vildi staðfestaz þar í dalnum; enn þá var allr Bárðardalr byggðr. Egill mælti: hugat hefi ek at bólfestu hér fram til dala, ok er víða byggilegt ok skaltu eiga land allt milli Skjálfandafljóts ok Mjóadalsár fram til Sanda. Eftir þetta riðu þeir Egill ok Helgi krókr at heiman ok skoðuðu landit ok kölluðu Króksdal fram með fljótí. Helgi reisti bú á Króksdal ok kallaði Helgastaði. Hann átti konu þá, er Hallveig hét. Mikill vinskapr var með þeim Hrana hring ok Helga krók, ok var hann oft með Helga; gaf Helgi honum marga ágæta gripi; meðal þeira var sax eitt, hið bezta þing. Nú liðu svo fram tímar at eigi bar til tíðinda,

## 3. kafli

Þat var eitt haust, at mpnn skyldu eita geldfjár síns tíl fjalla. Yakr hét einn sauðamaðr Helga er í fjjárleit fór ásamt öðrum.

Hrani fór líka; þeir áttu fjallgöngur saman við Mývetninga. Þá bjó Gauti á Gautlöndum. Hjá honum var sá maðr, er Sigfús hét, hið mesta illmenni ok sýndi mörgum ójöfnuð sinn. Hann fór í fjárleit með Mývetningum. Svo bar til, at þeir hittuz Vakr ok Sigfús ok gengu saman um hríð, þar til þeir hitta sauðahóp, ok eltu hann lengi dags, unz þeir komu at gjá einni. þar náðu þeir sauðunum ok könnuðu þá; átti Helgi krókr sauðina; meðal annara var þar einn sauðr öðrum stærri, er Vakr átti sjálfr. Sigfús falar sauðinn, ok kvaðz jafnvel vilja hafa hann fyrir ómak sitt, Vakr færðiz undan, ok vildi eigi láta sauðinn; kífuðu þeir um þetta, þar til Sigfús hóf upp exi sína, ok höggr til Vakrs svo at í heila stóð; þá kom þar at Hrani ok förunautar hans, ok sjá, hvað um var, at Vakr er veginn. Spyr nd Hrani Sigfús, hverju þetta sætti enn Sigfús segir slíkt er var af viðskiftum þeira. Hrani mælti: víða kemr fram ójöfnuðr þinn ok illmennska, ok vil ek nú hefna hans á þér. Sigfús mælti: eigi mæliz ek þá undan þér, ok hleypr at Hrana ok höggr til hans með exinni, enn hann brá skildi fyrir sik; kom þá höggið utan á knéð, ok renndi út af; varð þat allstórt sár. Nú höggr Hrani aftr til Sigfúsar saxinu Helganaut; kom þat högg á handlegginn, ok nam burtu öxlina við síðuna, ok féll hann dauðr niðr. Varð mikill krytr um þetta Hrana ok Mývetninga; heygðu þeir þar Sigfus, ok eftir þetta sneru menn til byggða með fé sitt, er fundið höfðu.

# 4. kafli

Nú ríðr Hrani hringr at Mývatni til Þorsteins frænda síns i Reykjahlíð. Tók Þorsteinn honum vel ok spyr tiðinda. Hrani sagði slíkt er til bar um vigið, ok bað hann nú ásjár. Sýndi Hrani Þorsteini sár sitt, ok kvaðz heyrt hafa, at kona Gauta á Gautlöndum væri hinn bezti læknir; vilda ek at þu færir með mér þangat ok friðmæltiz við Gauta mín vegna um víg Sigfusar. Þorsteinn svarar: vel er þat, frændi, þó at ek tali Júnu máli við hann um sættir; hann er ok vin minn ok góör drengr, - ef vel er leitat, ok eftir fetta riðu þeir báðir til Gautlanda, ok fundu Gauta í úti skemmu sinni; hann heilsar þeim Þorsteini vel ok spyr tíðinda. Þorsteinn mælti: eyrindi á ek við þik, Gauti, ok er þér þat at segja, at Sigfús heimamaðr þinn er veginn af Hrana hring, frænda mínum; segir Þorsteinn öll viðskifti þeirra ok kvaðz vilja koma á sættum milli Gauta ok Hrana; tekr nú upp fingrgull ok bað Gauta at þiggja. Bónda leitz vel á hringinn, tók við ok mælti: illa tókz þetta til, því at þó at Sigfús þækti ódæll við flesta, reyndiz hann mér trúr, enn sökum vináttu okkar, mun ek eigi til eftirmála færa um vigit; þökkuðu þeir honum orð sín, ok sýndi Hrani Gauta sár sitt, ok kvaðz heyrt hafa, at Auðr kona hans væri bezti læknir; vildi ek dvelja hér um hríð, segir hann, meðan hún gjörði at sárinu. Gauti lofaði þessu, ok varð Hrani eftir, enn Þorsteinn fór á braut ok heim í Keykjahlíð. Nu skoðar Auðr sárið ok var þat mjök vont; var hann þar tvo mánuði til þess er hann var nær fullgróinn ok fór síðan heim aftr til föður síns. Bar nú eigi framar til tíðinda at sinni.

# 5. kafli

Hróaldr galti hét maðr; hann bjó at Torfastöðum í Vopnafirði; hann var bróðir Sigfúsar, er Hrani drap, hroðamaðr hinn mesti ok illr viðrskiftis; átti hann ok sökótt víða; frétti hann nu fall bróður síns ok varð mjök illa við; heitir nú at hefna; býr hann sik nú at heiman með sjaunda mann ok fór um fjall vestr allt at Mývatni; var þat næsta surmar eftir þat er Sigfús var veginn; komu þeir síð dags at Gautlöndum. Gauti var í túni ok húskarlar þrír. Gauti heilsar Hróaldi ok bauð gistingu um nóttina; kvaðz Hróaldr þat þiggja mundu. hefi ek, segir hann, eyrindi við þik, eða er Sigfús bróðir minn hér? Gauti mælti: eigi er hann hér; ok segir hann nú Hróaldi galta allan málavöxt ok býðr honum fébætur fyrir Sigfús vegna Hrana, enn Galti kvaðz ekki þiggja vilja utan líf Hrana, ok vildi ek þú vísaðir mér leið til hans ok styrktir mik at hefna bróður mins. Gauti svarar: aldrei styrki ek þik at ná honum, ok býð ek þér enn bætr fyrrir hann, ella geng ek í lið með honum. Galti svarar: hraklega er þér at máli eftir Sigfús; var hann þó með þér vel ok lengi ok vann dyggilega, enn nú viltu slíkt engu umbuna, sem þat væri einkisvert ok er maklegt þú njótir þess í nokkru. Reiðir hann nú upp exi ok hjó til Gauta, enn hann brá sér undan ok missti hinn höggsins. Spjót stóð í túninu, ok grípr Gauti þat ok skýtr at Galta, enn hann brá skildi fyrir sik, og sakaði hann ekki. Nú hlanpa hvorir tveggja til vopna ok sókti Hróaldr mjög fast at Gauta ok lyktaði með því, at Gauti féll og einn húskarl hans, enn hina tvo tóku þeir, ok lét Galti þeim fé, ef þeir vísuðu honum trúlega leið til Hrana at Lundarbrekku; enn þrælarnir lofuðu þvi, ok lét Galti þá annan þeira fara ok njósna um, hvort Hrani væri þar. Þrællinn fór ok varð var um, at Hrani væri eigi heima; hafði hann verið með Helga krók um tíma. Lét nú þrællinn Galta vita þetta, ok ríða þeir nú leiðar sinnar níu saman ok vísuðu þrælarnir honum veg allt at Skjálfandafljóti ok yfir þat á Hrafnabjörgum; riðu þeir fram Króksdal þar til er þeir litu, hvar mörg viðarhlöss voru. Þar sjá þeir ok þrjá menn; einn þeira leitz þeim mjök vasklegr. Hann gengr til Hróalds galta, heilsar hönum ok spyr at nafni, enn Galti sagði hið sanna ok spyr hvað hann heiti. Maðr sá er fyrir var kvaðst Hrani heita, ok vera sonr Egils á Lundarbrekku. Galti mælti: vel ber nú í veiði,. at vit hittumst hér, ok er ek bróðir Sigfúsar, er þú drapst í fyrra sumar, ok kem nú til at hefna hans; hefi ek nú drepið Gauta á Gautlöndum, ok einn þræl hans, enn tveir fy]gja mér til þín hingat ok muntu nú fara sömu för sem bann. Hrani svarar: eftir áttu at leiða mik þann veg, ok þesslega lízt mér þu sjálfr sem feigð kalli at þér, er þú hefir mik heimsóttan í þessum hug, ok muntu segja mér af viðskiftum ykkar Gauta áðrenn þú leggr mik at velli. Galti segir þá hit sanna þar um ok mælti síðan: sé nú framar dugr í þér enn merbikkju roskinni, þá hefndu hans nú. Hrani mælti: vit skulum báðir reyna mð okkr, enn menn okkar

sitji bjá, því at ójafnt er lið okkart. Galti svarar: njóta mun ek nú liðs míns ok bleyðiz þú mjök, ok syniz mér, sem þú sért nú feigr. Svo fer sem auðnar, segir Hrani; lítz mér þú duglaus, er þú vilt níðaz á mér, ok mun ek eigi undan renna. Hann hafði hjá sér svertðit Helganaut ok skjöld sinn; ok er þat nú fyrst hér eftir, at Galti leggr spjóti sínu í gegnum annan fylgjara Hrana, svo at hann féll dauðr niðr. Þá mælti Hraui: saklaus var þessi við þik ok réðstu nú á lægsta garðinn, enn efar þik at ganga til móts við mik? Galti mælti: slíka för muntu fara sem fylgjari þinn; ok í því hleypr hann at Hrana ok leggr í skjöldinn með spjótinu, enn Hrani bar af sér ok varð eigi sár. Þá höggr Hrani til Galta í skjöldinn ok klauf hann; fékk hann ok sár í lærit. Nú eggjar hann menn sína at sækja at Hrana; þjóta þeir nú allir í ákafa ok sækja at Hrana; drepr hann þar fjóra af þeim, enn Galti hopar undan. þá mælti Hrani: nær muntu nú ganga verða, ef þu hyggr at hefna bróður þíns á mér, ok er þér eigi sæmd í at eggja aðra enn þora sjálfr hvergi nærri at koma. Þá mælti Galti til sinna manna: sækjum nú aliir í senn at honum, ok látum eigi spyrjaz þá skömm, at undan snúi jafnmargir menn einum manni. Var nú sá hinn ann-ar förunautr Hrana ok fallinn. Nú hamaz Hróaldr, hleypr at Hrana, og höggr í skjöld hans; þat högg sakaði skjöldinn ]ítit, enn Hrana ekki. Hrani hjó í móti, enn Galti hopaði undan, ok í þessu hjó Kári, einn fylgdarnautr hans, til Hrana; þat högg lenti á sverðinu, svo að þat féll or hendi Hrana enn eigi særðiz hann; enn með því at hann var mjök fimr ok handheppinn, náði hann sverðinu aftr ok hjó til Kára á handlegginn, svo at af fór, ok kom saxit í lærit, svo at hann féll. Nú sækja hinir allir at honum í senn, enn hann verz vei ok drengilega; drepr hann nú enn tvo af þeim ok í þessu bili hleypr hann at Galta ok hjó í höfuð honum ok klauf hann í herðar niðr; féll hann þegar dauðr niðr, enn sá einn, sem eftir stóð, bað Hrana griða; var þat annar þræli Gauta, er fyrr var getið. Var nú Hrani mjök móðr, enn lítt sár; hviliz hann nú um stund ok spyr þrælinn, hvat títt var um fall Gauta.

# 6. kafli

Litlu siöar kemr Helgi krókr með fjórða mann; hafði hann fregnat af smalamanni, at Hrani mundi þurfa liðs við; var nú fagnaðarfundr með þeim, ok sögðu menn, at þvílíkr maðr mundi eigi vera á þeim dögum þar nálægt, sem Hrani var at afli ok fimleik. Var nú Kári eigi út af dauðr, ok hjó Hrani af honum höfuðit. Svo dysjuðu þeir Hróald galta ok fylgjara hans þar í einum hól, er síðan nefniz Galtahóll; fóru síðan heim til Helgastaða með víðarhlössin; ræmdiz þetta víða um sveitir. Eigi er getit, at nein eftirmál yrði um fall Galta, því at hann átti eigi frændr nána sér, þar með var hann ok óvinsæll mjök. Sat nú Hrani hjá Helga um hríð ok bar eigi til tíðinda. Helgi var mesti búsýslumaðr; átti hann gott bú ok margt fé, hann hafði selstöðu sína fyrir austan Skjálfandafljót. Eitt sumar bar svo til, at smalamaðr kom eigi heim at selinu um morguninn, og leið svo dagrinn ok nóttin. Nú láta griðkonur segja Helga, hvar komit var ok segja, at fé hafi eigi heimkomit; undraz menn nú yfir því, ok sendir Helgi tvo menn at leita hans. Þeir fóru á stað ok leituðu þrjá daga fram til fjalla, ok finna hann eigi; var svo hætt ftessari leit ok settr annar smali, at gæta fjárins. Nú leið hálfr mánuðr til þess að hann hvarf ok var hans einnig leitat ok fannz hann eigi heldur enn hinn fyrri. Stórum undrar Helga þetta og ætla menn þá tölltekna ok vill nú enginn verða til smalamennsku í þeira stað, ok fer svo, at Hrani býðz til þess um hríð. Nú fer Hrani at smala ok líðr hálf önnur vika, svo at eigi ber neitt til tíðinda. Eitt kvöld rekr hann fé langt fram á dalinn ok setz niðr þar sem hann hættir rekstrinum; sækir hann svefn mjök. Kemur honum í hug, at þetta muni eigi sjálfrátt. Stendr hann upp aftr ok hristir þetta af sér, enn sem hann litaz um, sér hann hvar féð kemr aftr hlaupandi með ys og þysi miklum; rennr nú af Hrana nokkut ómeginit, ok nú getr hann at líta, hvar einhver óvættr hleypr á eftir fénu; nálgaz nú þetta fljótt ok er þat at sjá tröllkona ferleg; stígr hún á í fyrir, enn þjóhnapparnir berir, enn er hún kemr þar sem Hrani var, staldrar hún við ok mælti: heill þú Hrani hringr og muntu bíða mín. Hrani mælti: svo er víst, eðr hvat heitir þú, eðr hvar eru híbýli þín? Hún segir: at litlu kemr þér þat at vita; ek heiti Nýpa, ok erum vér systr þrjár, ok vinnum fyrir föður vorum í kör, ok er ek þeira elzt enn móðir vor er önduð; aðsetr eigum vér í Fljótsdal hér fram; höfum vér verið þar í tólf ár ok mun mönnum víða hafa þókt nálægt vanta á haustum fé ok hross; hefi ek sókt smalamenn tvo Helga króks, ok nú ætla ek at hæta þér við ok hafa til snæðu á morgun; hefir þó föður minn illa dreymt til þín, ok hygg ek öfugt orðit fyrir honum um

drauma, því at hann á nú fáar vikur eftir ólifaðar. Að þessu mæltu ræðr hún á Hrana, enn hann nær hryggspennu yfir um hana miðja, ok þrýsti hún þá svo fast at handleggjum hans ok búk öllum ok varð hann nær aflvana fyrir henni; verz hann fyrir henni um hríð, enn hún sækir at koma hon-um undir sik, ok nú hrekjaz þau um bala nokkra ok færaz at steini einum, er þar stóð. þat finnr hann, at hún vill koma hönum á steininn, enn hann verz því vel og hart; um síðir vinnz henni at taka hann í fang sér ok bera hann at steininum, ok er hún kemr at honum, bregðr hann svo hart við, at henni verða hendr lausar ok snýr hún þá baki at steininura; neytir hann nú orku ok rekr hana aftr á bak á steininn ok hryggbrýtr hana. Þá segir hún: svo mun fara sem móðir mín heitin sagði, at vér mundum af einum manni allar drepnar verða; hefir þú nú yfirunnit mik ok muntu þar af hrós hafa. Vill nú Hrani eigi lengr heyra raus hennar, enn gat þó eigi að gjört, því at hon hélt honum svo fast að sér at ekki mátti hann hræra nema hendurnar; brýtz hann nú um þar til hann losnar; hefir hon þá rifið klæði hans af honum, ok nú hleypr hann þangat er sverð hans var ok hann hafði mist í tuski þeira; grípr hann þat ok höggr haus af henni, ok er hann var af, geispaði hann uppá Hrana svo at hann féll í ómegin af gufu þeiri, er or honum gaus; enneftir litla bið, raknar hann við, ok er þá stirðr mjök; gengr hann þá heim í setit ok leggst niðr.

# 7. kafli

Um morguninn, er griðkonur voru á fótum sjá þær at fé er við stöðul, enn Hrani liggr í hvílu, ok ætla hann muni hafa vakat hjá því um nóttina, ok heim komit þar fyrir rismál. Nú liggr hann allt til hádegis; svo rís hann upp; sjá þær þá klæði hans víða rifin í sundr; nú lætr hann taka hross eitt, er þar var nálægt ok ríðr heim til Helgastaða; finnr nú Helga; fagnar bóndi honum vel og spyr tíðinda. Hrani segir sem orðit var frá viðskiftum þeira Nýpu ok sín, þykir Helga míkils um vert, ok þakkar Hrana með mörgum fögrum orðum framgöngu sína; sýndi Hrani, hversu hún hafði rifit af honum klæðín ok svo var hann ok víða hlár ok marinn, ok hold hans í hnykla samanhlaupit. Nú er sem fyr, at enginn vill til smalamensku verða í Króksdal; er svo fært heim or selinu; ber nú eigi til tíðinda at sinni frainar; enn um haustit fara menn í fjallgöngur ok fjárleit, ok er þar Hrani einn með öðrum.

# 8. kafli

Maðr hét Sölvi, hann bjó á Stóruvöllum í Bárðardal; hann átti son, er Einar hét; hann var sterkastr ungra manna, er þar uxu upp; þá bjó Höskuldr halti at Hofgörðnm í Rangárdal; hans son var Gestr krúna mikill maðr ok sterkr; hann gekk næst Einari um afi ok íþróttir, ok var vel með þeim; hann fór ok einn í fjárleit með hinura. Fylgjaz þeir svo at Hrani, Einar ok Gestr, ok ætla sér at ganga Fljótsdal ok er þeir komu fram eftir hönum, gjörir þoku með fjúki ok því næst hríð svo ákafa, at hvergi sá frá sér. Hrani segir til sínna manna: Nú skulum vér hér aðsetjaz ok bíða þess, er at höndum kemr, ok svo gjöra þeir; ryðja nú saman grjóti, er nóg var af ok gjöra sér skjöl; setjaz svo þar ok er þeir eru þar aðseztir fyrir litlu, lítr Einar út; sér hann at hríðin minnkar nokknt, ok nú gjörir hann at líta, hvar tvær skessur hlaupa megnisstórar ok stefna at byrgi þeira; hann segirþetta félögum sínum; enn Hrani brá við ok hleypr út ok hinir tveir með honum; í því eru þær komnar ok ræbz önnur á Hrana, enn önnur snýr at Einari. Nú er at segja frá atgangi Hrana ok skessunnar, at þau sviftaz lengi; finnr hann at hún hefir afl miklu meira hinni fyrri; bregðr hann henni nú til sniðglímu ok verðr hún at falla, enn hann er ofan á henni; hefir hann engin ráð at fyrirkoma henni; nær þó um síðir til knífs á belti síuu, og bregðr hönum á háls henni, svo at nú beljaði blóðit upp um hann, enn hán heldr honum föstum at sér; getr hann þó um síðir losat sik; stendr hann nú á fætr ok sér at hin skessan hefir komit hinnm báðum undir sik; grípr hann þá undir kjálka hennar, ok setr knén við hrygginn, ok brýtr hana svo á bak aftr; enn í því hljóp úr henni svo vond gufa ok mikil framan í hann, at hann rauk aftr á bak ok vissi ekki af sér um stund, enn Einar koraz nú undan henni ok náði sverði Hrana ok hjó af henni hausinn, enn hón hafði bitið Gest á barkann áðr, ok var hann dauðr; fer nú Einar at vita, hvort Hrani er lífs, ok raknar hann þá við, ok var honum óþægt mjök; sækir nú Einar vatn ok gefr honum, svo at Hrana batnar smámsaman víman; birtir nú hríðina ok kemr gott veðr; voru þeir þar um nöttina; ok daginn eftir dysja þeir Gest ok þær í öðrum

stað: heita þar síðan Skessudysjar. Eftir þetta fara þeir at leita hellisins, ok um síðir koma þeir at gljúfrum nokkrum; var þar hamarr stór ok illt atgöngu; sjá þeir undir hamrinum hvar skugga bar á í einum stað; klifra þeir nú ok vaða þangat til er þeir koma þar; eru þar dyr ok hurð í hálfa gátt; ganga þeir nú í hellinn ok innar eftir honum; þar til þeir finna enn nú dyr ok járnhurð fyrir. Nú heyra þeir stórt hrot, svo at eigi þóttuz þeir þvílíkt heyrt hafa; leitaz þeir svo við at komaz inn, ok geta eigi, ganga svo báðir á hurðina í senn sem vasklegast þar til at hún hrökk upp; var þar nú bjart nokkut sakir glugga, er á var berginu austan til; í því vaknar karlinn, ok var hann næsta stór og íllúðlegr. Hann spyr, hvat sé hark þetta, ok sagði: hefði gestavon verit hér, þá heföi ek sagt manna-þef í helli mínum, ok illa hafa mér gefiz draumar í dag, eða hversu gekk ykkr ferðin ok færit þér mér höfuð Hrana? Þat þóttuz þeir vita, at karl mundi blindr vera; hleypr nú Hrani inn ok rekr sverðit undir hönd honum, svo at gegnum hann stóð, enn karl brá við skjótt ok steyptiz fram or fletinu, enn Hrani brá sér undan, ok brautz karl svo um, at allt skalf ok gekk or lagi, er fyrir varð; drapz hann svo um síðir; fór þá Einar inn fyrir hann í hellinn, ok könnuðu þeir hann ok fundu þar marga gripi í gulli ok silfri ok báru or hellinum svo mikit sem þeir gátu meðkomiz; gekk þeim illa þaðan at komaz; lágu þeir þar nærri um nóttina, enn daginn eftir fóru þeir aftr með bagga sína. Enga lifandi skepnu sjá þeir á leið sinni, ok gengu síðan heim. Nu segja þeir Helga ok öðrum mönnum frá ferðum sínum; þókti öllum mikils um vert ok lofuðu hreysti Hrana. Mikit fé vantaði menn um haustit, ok hugðu allir at tröll þessi hefði tekit þat, þó at þeir fóstbræðr yrði eigi varir við. Liðr þá svo af þessi vetr, at eigi ber til tíðinda.

# 9. kafli

Nú sem vora tók, kemr Hrana í hug, at frama meira sé at fara utan ok kynna sér önnur lönd, höfðingja ok siðferði. Þat var einn morgun fyrir uppistöðutíma, at hann svaf svo sem aðrir í hvílu sinni, og dreymir at hann sé úti staddr í tuni á Helgastöðum. Hann lítr mann gamlan, enn þó vænlegan á velli; þykiz nú heilsa honum ok spyr hann at nafni; komumaðr tekr vel kveðju hans ok kvaðz þórir heita. Óspurt þekki ek þik, segir komumaðr; þú heitir Hrani ok ert dóttursonr minn; stendr þu heldr til þess at verða sómi ættar þinnar bæði kurteisis ok atgjörvis vegna, eða hvat vinnr þú hreystilegt ok hrósvert hér í plássi framar enn komit er? nú er eigi ólíklegt, at þik fýsi hér eftir at koma í önnur lönd, ok freista hvat þar liggr fyrir þér, eðr hvat þú kannt þar til frægðar at vinna, ok urðu nú Þóri ljóð af raunni:

þér verðr frami; farðu, fljótr at
hildarmótum, fjörgínar frá
ofbergi flot mírn á byrgota,
herteits harða snæru ok hryðja
þing tugviðar fellir sæmána
fjallit fálka á þjóttu kjálkum.

ok enn kvað hann:

Illvættum hefir hallat hreysti
þín, börr ljóss rínar Galta helgin
í veltir
ok glópum þeim með hljópu
ágang mátt eins víkingum
orka Hrani bana
bandgjóðs brátt í vindi
ok blik sjóðs fága mikit.

At svo mæltu hvarf Þórir, enn Hrani vaknaði, ok mundi vísurnar; segir hann nú Helga frá draumnum. Helgi mælti: nógu líklegt er, at svo gangi þér framvegis, sem hann lét þik skilja i draumnum, ok muntu láta föðr þinn vita um þessi efni. Hrani kvaðz nú svo vilja gjöra, ok skildu þeir svo talit í þat sinn.

# 10. kafli

Enn skömmu eftir þetta ríðr Hrani til Lundarbrekku, ok kemr at máli við föðr sinn, segjandi honum fyrirætlan sina, einnig draum sinn ok fyrirspá móðurföður síns um eftirkomandi hagi sína, eða hvat viltu, faðir, leggja til þessa, segir hann? Egill svarar líkt sem Helgi, at eigi sé ólíklegt, at honum getiz vel at áformi þessu, ok mun því bágara at letja þig sem afi þinn hefir spáð betr fyrir þér, því at svo ræð ek vísur hans, sem hugr karls sé vel til þin ok hann viti fyrir þér liggja nokkra gæfu. þykir mér nú eigi síðr gegna, at þú hvetjir Einar Sölvason til utanferðar með þér; þit erut báðir efnilegir ok vel færir menn, þó at nokkru sé at mæta; þat er ok líkvænlegra fyrir tvo jafnröskva sem þit erut, at taka far hjá ókendum skipverjum eða vera meðal margra ókunnugra manna, enn einn ókendr hvat sem kann til at bera, ok mættut þit halda saman, þar til þit fáit ykkr vel niðrkomit; enn ætlan mín er þat, frændi, at eigi munum við Sölvi sjá ykkr aftr né þit til íslands koma síðan. Nú vilda ek fá þér svo farkost, at þér þækti sem meðtekit hefðir föðurarf þinn eðr arf eftir okkr móður þína, þót eigi aftr kæmir. Hrani gladdiz nú við lofun þessa ok þakkaði föður sínum fyrir blíðlega; skilja þeir nú at svo mæltu. Fer nú Hrani at hitta Einar ok segir honum ráðagjörð sína ok tillögur föðr síns. Einari leitz vel á þetta fyrirtæki ok kvaðz vilja með honum fara. Nú kemr Hrani heim til Helgastaða ok segir Helga allt hvat til hafði talaz með þeim íeðg-um ok Einari um utanferð þeira, ok at faðir sinn hafi spáð sér, at eigi mundi hann aftrkvæmt eiga til ættjarðar sinnar né heldr Einar. þá hugsum við Egill um sama, segir Helgi, ok mun þat skilja með mér og þér sem ykkr feðgum, ok verðr mér at þér söknuðr; því at þú heíir oft ok vel hjá mér verit, ok slíkir menn eru hér eigi í plássi, sem þit Einar erut at hreysti ok listum, enn þó kemr mér eigi til hugar, at hamla ykkr í þessu, því at til meiri sæmdar ok ríkdóms kann ykkr þetta at koma enn flestum öðrum. Vel talar þú um þetta, segir Hrani, ok slitu svo talit.

# 11. kafli

Rauðr er maðr nefndr; hann var suðreyskr; hann var í kaupferðum jafnan ok hafi ýmsra landa vöru; var hann því auknefndr Kaupa-Rauðr; hann kom þetta sumar í Skjálfandafjörð snemma; tvö skip komu ok undir eins á Eyafjörð; enn er Bárðdælingar fréttu skipakomu, fara þeir sem aðrir or nálægum héruðum at finna kaupmenn; urðu nú menn beggja megin Skjalfandafljóts fúsari til at finna Rauð kaupmann enn hina, er fyrir innan at komu, því at betra orð fór af honum ok vöru hans; komu þeir Hrani ok Einar ásamt öðrum á fund RauSs, ok var þat skjótt at þeir réðu far með honum; því at þeim leitz spaklega ok vel á manninn, þót skipverjar hans væri flestir á annan hátt, ok eigi svo þæglyndir. Nú gjörði Egill son sinn or garði svo sem hann hafði lofat ok fékk honum mikinn farkost, ok ýmsa gripi ágæta, og þurfti þar eigi at segja, at hann hefði skort á skotsilfri. þeir Egill ok Helgi fylgdu þeim Hrana ok Einari til skips ok skildu svo við þá með mörguna góðum hjartans óskum.

# 12. kafli

Skömmu eftir þat er Rauðr hafði lokit kaupsýslan sinni ok var tilbúinn, gaf þeim byr burt ok létu þeir í haf, enn þat varð eigi lengi þar til meðbyr þeira tók at minnka; áttu þeir austr langsaman, þviat útivist varð löng, ok gengu íslendingar vel fram í þvi verki, enn Rauðs menn sáu yfirburði þeira, ok at suðr-eyskir menn mundu eigi margir ná til jafns við þá at afli ok íþróttum; tók at kvikna í þeim öfund við fóstbræðr, enn bæði var at þeir tveir héldu ætíð saman ok skildu aldrei, ok svo höfðu þeir velunnan kaupmanns; því réðu skips-menn aldrei á þá hvorki í vopnaskiptum né öðrum atvikum; enn eitt sinn, er Rauðr heyrði á illyrði þeira manna sinna til þeira fóstbræöra, þá mælti hann: þat mun verða í fyrsta

sinn ok siðasta at ek kem til íslands ok íslenzkir menn verða á fari með mér; því vildi ek óska af yður skipverjum mínum, at verða eigi svo áleitnir við þessa menn, einkum er þeir hafa sýnt alla þægð ok spaklæti, síðan þeir komu í samför vora; annars munut þér hafa bæði mik ok þá í mót yðr. Eftir þetta bar allt minna á hnýfilyrðum Rauðsmanna. Enn um haustit skammt

fyrir vetrnætr náðu þeir Suðreyum. Var kaup-manni þar vel fagnat heimkomnum, ok mæltu sumir, at suðreysku skipverjunum ok íslendingum væri mál at skilja.

# 13. kafli

Þat er að segja frá fóstbræðrum, at þeir tóku vetrvist með þeim manni er Högni hét, hánefr at auknafni. Hann átti konu þá er Geirþrúðr hét. Þau tóku vel gestunum, enn þeir sýndu sik óáleitna ok þæga hverjum manni. Hjónin áttu dóttur þá er Signý hét, ok var hartnær gjafvaxta orðin; var hon fríft ok björt á hár ok hörund, svo at hon tók fram öðrum meyum þar í grend; var hon ok nefnd ljósbrá atauknafni; brátt fannz at Hrana var orðit kært til hennar ok tók hon því með kurteisi ok blíðu. Í húsum Högna hánefs voru ok tvær mæðgur; hét sú eldri Sunnefa enn hin yngri Ölrón; ok var hon þá nýfulltiða; hon var sá annar kvennkostr sem næst gekk Signýu at raun ok sjón, ok sannaðiz á henni þat sem þeir gömlu höfðu sagt um England í samstæðum, at þar væru meyar fríðar; enn þær mæðgur voru enskar at ætt. Gautr hét maðr Sunnefu, enn faðir Ölrúnar, kallaðr stórhenti; hann var eftir í Englandi ok synir þeira hjóna, er þá voru flestir fulltíða; því at þat bar við hit sama sumar, er þeir Hrani ok Einar komu til Suðreyja um haustit, at víkingr nokkur, Grímr at nafni, auknefndr jáfnkarl, tók strandhögg í einum stað við England; enn er hann kom á heimili Gauts stórhenta, er þar varð í vegi fyrír honum ásamt öðrum fleirum, var eigi bóndi né synir hans heima, ok fátt annara manna; þeir feðgar höfðu þann tíma farið at heimboði upp í landit í einhverjum stað, enn þær mæðgur voru eftir heima með tvo eða þrjá karlmenn, enn þeir flúðu er þeir sáa til ferða Grims; enn hann ok menn hans tóku þær mæðgur í braut með sér, ok allan hinn bezta kost ok nýtilegustu hluti ór bænum, er þeir girntuz at eiga ásamt öðru herfangi, bæði kvenfólki ok karlmönnum ok fjárhlut, er þeir höföu tekit í grend. Nú siglir Grimr sína leið með þetta, enn er þeir komu nálægt Suðreyum, hugsandi at gjöra þar eins, þá mættu honum vikingar á þremr skipum; höfðu eigi þessar herteknu kvensniftir af at segja, hverjir þar komu á móti, utan sá hét Eysteinn harðverkr er fyrir var; sló nú í bardaga með þeim Grími ok féll hann ok hans félagar i í þeiri orrustu; var þó sagt, at hann heföi verið svo seiðmagnaðr, at engi járn hefði á hann bitit. Þeir Eysteinn tóku nú kvenfólk þetta at Grimi föllnum, ásamt miklu öðru herfangi, ok barz kvennfólkit allítt af, svo at hermenn aumkvuðu þær ok skutu þeim á land hit fyrsta i Suðreyum með nokkrum fjárhlut; þá staðnæmduz þær mæðgur hjá Högna ok Geirþrúði. Einar lagði miklu ást við Ölrúnn, og undu þeir fóstbræðr vart annarsstaðar enn hjá þeim stallsystrum; var þar ok hver maðr vel til þeira, ok fór svo at sumarkomu.

# 14. kafli

Bræðr tveir eru nefndir til sögunnar; hét annar Arnhöföi enn hinn Hildir; víkingar miklir ok óeyrðarmenn ok höföu stundum berserksgang; þeir herjuðu víða um útstrandir ok eyar, svo at fékk fjör manna var í námi. Þeir stýrðu sínu skipi hvor, ok komu nú at Suðreyum fyrsta dag sumars; þá var Kaupa-Rauðr búinn til burtsiglingar at vanda ok hafði boðit til drykkju heima hjá sér þeim fóstbræðrum, Hrana hring ok Einari ok allmörgum þar innlendum. Eyamenn sáu til skipanna, at þau lentu þar sem Rauðr var fyrir ok létu gestir þeir mjök ófriðlega; var nú gengit til drykkjustofu Rauðs ok gesta hans með skipafregnina, ok tilgetit at vera mundu berserkirnir Arnhöfði ok Hildir; við þetta hljóðnaði Rauðr ok gestir hans, nema Hrani ok Einar. Tekr nú Hrani til máls ok segir: sjá megum vit Einar komumenn. Einar svarar: ef þú vilt koma út á móti þeim, mun ek eigi nenna eftir at sitja; vildi ek nú, at eyamenn hér nálægir hertu upp hugi sína ok fylgdu okkr ef áliggr; gengu menn nú út at sjá til hafnarinnar, ok leitz þeim svo á, sem til var getit; var fá safnat saman mönnum af þeim Hrana ok

Einari or næstu stöðum. Víkingana bar nú skjótt at, þar sem Rauðr kaupmaðr ok hinir allir voru; höfðu þeir ok orðit varir við mannaaððráttinn fyr enn þeir komu at garði þeim, er fólkit stóð undir; var þar Rauðr kaupmaðr, þeir tveir Bárðdælingar og 18 menn aðrir; voru þá þeir Íslendingarnir víglegastir af þeim öllum. Með Rauði var ætíð maðr sá, er Þórðr hét, ágæt bogskytta, svo at jafnslyngr maðr var þar eigi í þeiri list; var hann Dal-Þórðr kallaðr; nokkrir voru þeir aðrir, er af honum höfðu lært, enn kunnu þó eigi til jafns við hann. Enn er berserkirnir komu ok sjá flokkinn alvopnaðan hinumegin garðsins segir Arnhöfði: hræddir eru nu myslingar, eðr hví standit þér hér í hnappi eyamenn? vit Arnhöfði ok Hildir bræðr erum hér komnir at heimsækja þik Kaupa-Rauðr;

þú ert atfangamaðr mikill ok muntu taka vel við gestum. Svo vildi ek við ykkr taka sem þit leitit mín, sagði Rauðr. Nú færðu þína vöru selda þegar í dag, sagði Hildir, Líkt vil ek úti láta ok inn er lagt, segir Rauðr. Ekki skortir okkr bræðr, sagði Arnhöfði; hefi ek þat sverð í hendi, er heitir Grásíða, enn Hildir bróðir minn þat, er heitir Svaf. Tóku þá þeir bræðr at láta æsilega, ok grenjuðu mjök. Þeir Hrani ok Einar gengu þá fyrir garðsendann, alla götu at þeim bræðrum. Við mega menn skiftaz, þót hægra láti, segir Hrani. Arnhöfði snýr þá at honum, enn Hildir at Einari. Höggr Arnhöfði í skjöld Hraua, enn tók eigi á. Hrani hjó aftr og klauf skjöld fyrir Arnhöfða. Í annat sinn hjó Arnhöfði og tók þriðjung af skildi Hrana, enn eigi særðiz hann. Hrani hjó í annat sinn; kom þat högg á öxl víkingsins, ok nam frá síðuna hægri með handleggnum ok segir eigi framar af honum; enn sameign þeira Einars ok Hildis gekk svo, at Hildir bjó í skjöld Einars ok klauf hann í fyrsta bragði. Einar hjó aftr til Hildis ok nam lítit af skildi hans; berserkrinn hjó aftr til hans, enn hann bráz undan, snerti þá oddrinn lærit, svo at nokkut særdiz, enn sverðit gekk í völlinn á kaf, ok Hildir laut eftir högginu, á meðan hjó Einar á háls honum svo at af tók höfuðit, ok er hann ok or sögunni sem hinn. Enn á meðan þessi víg gengu af, mættu eyarmenn hinum ok sló þegar í bardaga, ok tók brátt til at beraz á þá; skaut þá Dal-Þórðr ok aðrir bogmenn margan skelmi til bana; enn er þeir Hrani ok Einar höfðu fellt þá bræðr, urðu þeir stórhöggvir ok mikilvirkir við þá, er eftir voru, ok réttu ðeir brátt hlut manna sinna. Enn er þat sáu þeir, er eftir voru á skipunnm, er bæði voru allmargir ok harðsóttir, gengu þeir á land ok sóktu at Suðreyingum; tóku Íslendingar vel ok drengilega við þeim. Bogmenn spöruðu þá eigi heldr skotin; harðnaði þá orustan at nýu; tóku þá hinir aftrir eyarmenn at særaz ok falla; varð þeira framgangr linr; enn þeir Hrani ok Einar drápu skipamenn þar til er eigi voru nema fjórir eftir, enn þeir vildu flýja til skipa; fóstbræðr vörðu þeim þat, þar til enginn var eftir síðast; var fá dagr á endað hafði orrustan staðit frá því um miðdegi; féllu þar allir þeir er alkomu: tuttugu og átta talsins, enn af Suðreyingum sjö. Lítit er getit um atgjörðir Rauðs kaupmanns, því at hann var eigi bardagamaðr. Voru nú fóstbræðr eigi mjök sárir, enn ákaflega lúnir ok móðir; fóru menn þá at sofa um nóttina, enn um morguninn snemma fóru þeir fram á skip þeira bræðra ok tóku þar herfang mikit í gulli ok silfri, gersemum og dýrindisklæðum, enn aðrir dysja valinn. Nú lögðu þeir Kaupa-Raðr ok Hðgni hánefr þat til, at þeir fóstbræðr skyldu mestan hlut herfangsins eiga, ok þeim næst þrír aðrir, er bezt lið höfðu sýnt ok svo varð; lofuðu nú allir mjök framgöngu Íslendinga, ok kváðu þar alla menn munda týnz hafa fyrir vikingum, hefðu eigi þessir menn svo vel dugat. Voru nú Bárðdælingar kátir ok drukku vel lystugt eftir allan þennan fjárfeng; kvað nú Hrani framkoma vísnaspá afa sins sem hann kvað fyrir honum í drauminum forðum.

# 15. kafli

Fám dögura eftir þetta sigldi Rauðr; enn næsta dag eftir þat kom skip til eyanna; voru þat hinir ensku menn at sækja kvenfólk sitt, því at feir höfðu frétt, at þat var í Suðreyum heilt ok lifandi; fór Einar til Englands með þeim mæðgum ok lýkr hér frásögn um hann. þat er at segja af Hrana, at Signý elskaði hann því meir, sem hún sá hann lengr, ok at hann var öðrum frægri; hafði hann þat í ráði við hana, at sigla til fleiri landa og verða víðar kunnugr, enn hon latti hann þess ok kvaðst eigi mega sjá af honum; ok er hvort tveggja, segir hon, at hvorki vinnr þú annars staðar meir til frægðar enn hér ok svo þarf þin hér við; féllz hann á ráð hennar ok gekk þá at eiga hana þetta sumar, Samvist þeira varð góð ok löng, ok varð hann mjög vinsæll maðr ok stóraubugr, því framar sem honum jókz þar aldr ok hann vann

meir ok meir til þess hvors tveggja, því at ætið er víkingar komu, var hann fremstr í flokki til at afstýra þeim ok eyða; ok hafði hann þartil mikinn styrk af þeim tveimr skipbrotsmönnum, er hann eitt sinn hjálpaði þar við eyarnar ok nefndir eru Björn breiðskeggr ok Þórir fimi, báðir íslenzkir; þeir fylgdu Hrana æfilangt, eftir þat er hann hafði tekit þá af skipsbroti þeira. Hrani kom eigi til íslands aftr svo sem faðir hans hafði spáð. Þau Signý áttu eina dóttur, er Hallveig hét; fleiri barna þeira getr eigi, svo at menn viti uppá víst. Hrani andaðiz á sóttarsæng sinni, er hann var orðinn gamall. Hafði hann átt sjö bardaga i eyunum fyrir utan þat sem hann feldi Galta og þræla hans áðr enn hann sigldi af Islandi, ok endar hér þann veg söguna af Hrana hring Egilsyni.